{Þess íslendska evangeliska}
{Smábóka=Félags rit No. 50. a.}

Hvad skal eg gjøra, svo eg cignist eylíft Líf?

Svoleidis spurdi Løgvitríngur einn Jesúm fordum daga.

Var Spurning sú ad sønnu í þad sinn af freistni, en hún er þó í sjálfri sér hin allra naudsýnligasta. Því á hvørju ridur einni manneskju meir, enn ad vita: hvørsu hún umflýa skuli Helvíti, en hljóta Himnaríki. Andsvar þad sem Løgvitríngurinn sjálfur gaf þar uppá, var ad vísu rétt, eins og Jesús sagdi, ef manneskjan væri nú í sama standi sem fyrir fallid, ad hún gæti haldid Guds løgmál fullkomligg. En þar sem því er ecki ad sæta, verdum vér ad leita eins annars Andsvars uppá þessa Spurníngu. Og hvørt mun þad Andsvar vera? þad sama sem Postulinn Paulus gaf Fángélsis vaktaranum í Philippis uppá líka spurníngu; þetta nefniliga: Trú þú á Drottinn Jesúm Christ, svo verdur þú sáluhólpinn! Svo er þá Trúin sá stóri Skilmáli sáluhjálparinnar eptir Evangelío, eins og Verkin voru þad eptir Løgmálinu. En hvílík

á þá sú Trú ad vera? Ecki ein daud og dódlaus sannleikans þecking og vidurkenníng, heldur lifandi og verkandi umfadman hans og tileignan. Sannleikurinn er þessi: ad Jesús Christur er í Heiminn kominn syndugа menn sáluhólpna ad gjöra; svo hvör sem trúir á Jesúm, og midt í þeirri trú elskar hann hjartanliga og hlýdir hönum kostgiæfiliga, hinn sami verdur, fyrir hans fridþægjanda dauda sakir, án efa sáluhólpinn eýlífliga. Svo sjáum vér þá hér af, ad Trúin á Jésúm á ad vera frjófsom af Elsku og Hlýdni, ef hún skal sannarlig heita. En sé hún nú frjófsom af Elskunni til Jesúm, þá flýtur þar af

a) fyrst ad umgeingni med þessum vorum Sálar Elskuga, verdur oss hinn allra yndælasta; hvör umgeingni ad stédur á þann hátt, ad vér þeinkjum um hann ydugliga, og í huga vorum speiglum oss í hans persónu Guddómligleika, hans lifnadar heilagleika, og hans Fridþægíngar fullkomligleika.

b) Þarnærst ad vidtal hans og ávarp til sálna vorra þykir oss hid allra ánægjusamasta og uppbyggiligasta; hvarfyrir, ad svo sem þad er hans heil. Ord og Evangelium, fyrir hvört hann vid oss talar, svo verdur þad vor stærsta list og eptirlæti ad heyra þad lesa og yfirvega, og

vér gledjum oss þá meira yfir því, enn öllu ödru sem til er í heiminum.

c) Í þridjalagi verdur þad vor dýrmætasta Sálar skémtan og dægrastytting, ad meiga sjálfir ad fyrrabragdi vid hann tala í bænum vorum, hvörsvegna ad Bænin verdur vor kjærasta ynds isýdja, vor sætasta svölun og vor kröptugasta hressing.

d) Í fjórdamáta verdur oss hans heil. holds og blóds Sakramenti hin allra fagnadarríkasta hátid, er vér höldum hér á jördunni, í hvörri oss stakliga veitist forsmeckur og frumgródi eylífrar sælu á himnum. Allt þetta finst nú vissuliga hjá oss, ef vor Trú á Jesúm er rík af lifandi elsku til hans.

En sé hún ogsvo frjófsöm af Hlýdninni vid hann, sem endiliga hlýtur ské, því sönn elska er aldrei án hlýdni, þá flýtur þaraf

1) ad sjálfs hans eptirdæmi þykir oss hid allra dýrmætusta, svo vér kostum þá kapps um ad feta í fótspor hans, og höfum oss þad jafnan fyrir augunum til. ad breyta eptir.

2) Ad Bodord Jesú og Skipanir verda oss þá yfirmáta kjær og gédfeld, svo vér med lyst og gledi leitunst vid ad lifa eptir þeim, og oss finnast þaug þá ei. heldur þúng ad vera.

En þessi Trúarinnar Hlýdni lætur sig út-

vortis í ljósi á ýmsan hátt, eptir því sem tækifærin gefast; til dæmis

a) í því ad leita Guds dýrdar fyrst og fremst í öllum hlutum, og leggja sína skynsemi, sinn frívilja, sínar tilhneigíngar, til fóta hans guddómligu hátignar, og þad í djúpustu hjartans audmýkt, í öllum tilfellum. b) Í því ad efla á allan hátt sinna medmanneskja sönnu luckn til Lífs og sálar, og vilja fúsliga, sökum almenníngs besta, leggja í sölur sína eigin æru, ábata og eptirlæti; í hvörju öllu madur hefur Jesú dæmi fyrir augum sér. c) Sálargagn annara, svovel sem sitt eigid, metur hann þó lángt fram yfir líkamans, og sorgar þessvegna fyrir ad stoda til þess, sem best hann gétur og hefur vit á, med ordum, verkum og eptirdæmi. d) Grundvallardriftina til alls þessa, lætur hann einúngis vera elskuna til Guds og síns náúnga, er fædist út af trúnni á Jesúm í hjarta hans, þegar hann símindar sér elsku Guds, er gaf sinn Son í daudan fyrir oss; og elsku Jesú sjálfs, er svo fúsliga útlagdi Líf sitt til Lausnargjalds alls mannkynsins vegna. e) Hann elskar því jafnvel óvini sína og bidur fyrir þeim af hjarta, ad dæmi síns Frelsara, og er þessvegna jafnan hinn sáttgjarnasti vid alla. f) Eingu ad sídur vandlætir hann þó Guds dýrdar vegna, og tekur fyrri uppá sig

hatur og álas annara, enn ad hann sættist uppá þad, sem mótistrídir Guds vilja og hans eigin samvitsku. g) Innilig medaumkan yfir naud og bágindum hans samchristinna í heiminum hrærir opt hjarta hans, svo hann kappkostar ad rétta þeim sína hjálparhønd, sem best hann getur. h) Þolinmædina í sínu eigin mótlæti audsýnir hann fyrir Gudi og mønnum, og møglar ecki undan Guds typtunum, heldur tekur jafnvel móti þeim, þad hann megnar, med þacklæti og føgnudi.

Þvílíkir eru nú eiginligleikar þeirrar Trúar á Jesúm, sem dugir til eylífs lífs, og hina somu hlýtur madur því ad geyma lifandi og kroptuga í gódum verkum innra sem ytra, allt til daudans, vilji hann hólpinn verda. Hvar til sjálfur Jesús Christus — hennar høfundur og fullkomnari — veiti oss øllum nád síns heil Anda! Amen.